52.

# Lög

fyrir

# Húss- og Bú-Stjórnar

# Félag

## Sudur-Amtsins

á

# Islandi.

Videyar Klaustri, 1837.
Prentud á kostnad Félagsins,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

## §. 1.

Félag þetta skal nefnast: Sudur-Amtsins Húss- og Bú-Stjórnar Félag; þess tilgángur skal vera, ad efla velmegun Bænda-stéttarinnar í Sudur-Amti Íslands; ásetur þad sér því, eptir efnum, med rádi og dád, eda med ritgjørdum, peníngastyrki og verdlaunum, ad efla og frama búskap, lagfæra og betra búnadarháttu Amtsbúa til sjós og sveita, bædi hvad jardyrkju, kvikfjár-rækt, fiskiafla og vatna-veidar, handydnir og góda húss-stjórn snertir. En medan fjárhagur Félagsins er lítt efldur, vill þad einkum efla þúfna-sléttan og túna-gyrdíngar, og leida ritgjørdir, samsvarandi tilgángi þess, í ljós.

## §. 2.

Félagsins limir séu Reglu- og Auka-limir; þó vill Félagid kjósa sér til Heidurs-lima einstøku menn, er annadhvørt med fyrirmælum, sérlegri framkvæmd, rík-

uglegum fé = gjøfum eda frábærum eptir= dæmum efla tilgáng þess.

§. 3.

Reglir = limir séu þeir einir heidvirdir menn eda konur, sem heimilisfastir eru í Sudur = Amtinu, af hvørri stétt eda standi sem eru, sem styðja vilja Félagid og þess efni med 1 Rbds Silfurs fé = gjøf minnst árlega, eda med ad minnsta kosti 10 Rbda Silfurs gjøf einusinni.

§. 4.

Sem Auka = limi velur Félagid þá heidvirda menn, er óska ad ega þátt í þess fyrirtækjum, en ekki eru heimilisfastir í Sudur = Amtinu, hvørt sem heldur eru inn= eda út = lendir, leggi þeir Félaginu jafnt tillag, sem Reglu = limir.

§. 5.

Sérhvør Félags = limur hefir atkvædis rétt á Félags fundi, ef hann þar mætir. Samt mega Reglu = limir, sem ei sækja fund, gefa ødrum, sem mætir, sinn at= kvædis rétt til medferdar; þó svo, ad eng= inn þar vid fái fleiri atkvædi til umráda, enn 3, ad sjálfs hans medtøldu. Skulu þeir, er ei koma á Félags fund, og aungv=

um höfðu fengið atkvæði sitt til meðferðar, láta sér lynda þær ráðstafanir, sem þar gjörast af þeim er mættu.

§. 6.

Félags-limir, er bundist hafa árlegu tillagi, hafi því lokið annaðhvört til Félagsins Fulltrúa í þeirri Sýslu, hvar þeir búa, eða til Gjaldkéra Félagsins í Reykjavík fyrir 5ta Júlíi hvörs árs.

§. 7.

Þeir, sem í 2 ár samfleytt hafa ólokið tillagi sínu til Félagsins, í ákveðin tíma, útilokist úr tölu Félags-lima að tilhlutan Félags-stjórnarinnar; þó skal þeim leyft að inngánga í Félagið, ef þeir að eins lúka því, er þeir áður áttu ógoldið til Félagsins fjárhirðslu.

§. 8.

Embættis-menn Félagsins eru:

1 Forseti.
1 Aukaforseti.
2 Héraðs-Fulltrúar í hvörri af Suður-Amtsins Sýslum og 2 í Kaupstaðnum Reykjavík.
1 Skrifari.
1 Gjaldkéri.

§. 9.

Forseti Félagsins er jafnan Amtmadurinn yfir Íslands Sudur-Amti. Ætlast Félagid til þess af honum sérílagi, ad hann tali Félagsins máli á ædri stødum.

§. 10.

Hinir Embættismenn Félagsins veljist medal Reglu-lima, eptir atkvæda fjølda, á adalfundi þann 5ta Júlii; hafi þeir þad umbod á hendi í 2 ár; og má þann, sem frágengur, aptur velja til ens sama edur annars embættis. Þjóni þeir allir ókeypis, en skrif-faung og ønnur útgjøld Félags þarfir greidist af sjód þess, ef óskad verdur.

§. 11.

Auka-førsetinn á ad stjórna øllum athøfnum Félagsins á þess fúudum; einnig stýra rádsløgunum Fulltrúanna og Félags stjórnarinnar á samkomum og utan samkomu og daglegum sýslunum, sem því og þess fjárhag vidvíkja. Líka beri hann umhyggju fyrir ad løgum Félagsins sé hlýdt, samt ad øll reglusemi sé vidhøfd bædi yfir høfud og sérílagi á Félagsmótum. Hann géfi Gjaldkéra, samkvæmt Félagsins og Fulltrúanna undirlagi, tilhlýdi-

legar inn- og út- gjalda skipanir og hafi nákvæma umsjón með, að fjárfjóður Félagsins sé óhultur og að Gjaldkéri með reglusemi haldi daglega bók yfir þess inn- og útgjöld. Hann stýrir Félagsins bréfaskriftum, undirskrifar þess bréf og gengst fyrir innkröfu þeirra tillaga sem ógoldin eru í réttann gjalddaga. Í sérhvörju því, sem mikið er ívarið, og þó ekki má til úrlausnar bíða atkvæða á lögboðnu Félagsmóti, hefir hann ráð af Skrifara, Gjaldkéra og svo mörgum af Fulltrúunum, sem hann fær tilnáð, og fylgir í úrskurði slíkra málefna flestum atkvæðum. Að lyktum gjörir hann á Félagsmóti þann 5ta Júlii skíra grein fyrir embættis medferð sinni það liðna ár.

## §. 12.

Skrifari: Félagsins bókar á Félagsfundi sérhvað það, sem framfer um Félagsins málefni, og hefir hann til þess bók löggyldta, gegnumdregna og innsiglaða af Forseta. Hann ritar einnig sérhvað það, sem Aukaforseti í þarfir Félagsins eptir æskir. Parámedal nafnaskrá Félags-lima í tvennu lagi; aðra Gjaldkéranum til ávísunar, hina til að frambera á Félagsfund-

um. Hann undirskrifar inn- og út-gjaldaskrár með Aukaforsetanum, líka geymir hann Félagsins skjalasafn og sérhvað, sem því viðkémur.

§. 13.

Gjaldkeri Félagsins veitir móttöku öllum þess inngjöldum og lýkur útgjöldunum allt eptir undirlagi Aukaforseta. Bæði inn- og út-gjöld skrásetur hann með reglusemi án undandráttar í þar til gjörða bók, sem gegnumdregin, innsigluð og löggylt sé partil af Forseta, og skal hún á 3 mánuðum hverjum sýnd Forseta, ásamt Félagsins peninga sjóð, svo þeir géti gjört sig vissa um fjárhag Félagsins á sérhverri tíð. Bók þessi sé til sýnis á Félagsmóti 5ta Júlii ár hvert. Að lyktum, semur Gjaldkéri við sérhver árs lok greinilegann reikníng yfir öll inn- og út-gjöld Félagsins á því umliðnu reikníngsskapar ári og fylgi honum skjöl þau og skilríki, er sanni sérhverja grein inn- og út-gjaldanna. Þenna reikníng framleggur Gjaldkéri á Félagsmótum 28da Janúarii; hvar þá Aukaforseti velur 2 Félags-limi, til að gagnskoða reikninginn og byrta um hann meiníngu sína. Finni þessir ekkért athugaverdt

vid reikníngiinn er hann brádum prentadur. En finni þeir þarámóti nokkud ad reikníngnum gefa þeir Aukaforseta þad til vitundar; útvegar hann þá réttlætíngu Gjaldkéra og skér úr því, er á milli ber; ad hverju búnu med reikníngiinn er farid, sem ádur er sagt.

## §. 14.

Fullirúarnir eru Félags-stjórnarinnar adstodarmenn í øllu því, sem midar til Félagsins augnamids framkvæmdar, sérílagi í því héradi hvar þeir valdir eru. Þeir taka á móti þeim tillogum, sem Félaginu gjaldast á þá, og krefja þess, sem eigi er ad réttum gjalddaga lokid, eptir ávísun Aukaforseta. Þá er og ætlast til, ad þeir hvør í sínu héradi líti sjálfir eptir og fullvissi sig um, ad verk þau, fyrir hvør launa er beidst af Félaginu, séu svo af hendi leyst, sem frá er skírt af þeim, sem verdlaunanna beidast; og skal vitnisburdur þeirra þarum framleggjast, ádur til atkvæda kémur í Félaginu um úthlutan verdlauna eda peníngastyrks. Þegar um eitthvad þad skal rádslaga, Félagsins efnum og fyrirtækjum vidvíkjandi, er ei vard á-kvedid á adalfundum Félagsins, leitar Auka-

forseti Fulltrúanna skriflegs eda munnlegs atkvædis, ad minnsta kosti þeirra, er búa í 4um næstu Sýslum vid Reykjavík. Skulu þá slík málefni útkljást eptir atkvæda fjølda Fulltrúanna og Félags-stjórnarinnar. Hvør sá, er ad atkvæda fjølda til Fulltrúa-kosníngar gengur næst þeim, sem kjørnir verda, nefnist Varafulltrúi, og skal hann í forføllum annarshvørs hinna gégna hans skyldum.

## §. 15.

Félagsmót øll skal halda í Reykjavíkur Kaupstad. Kunngjørir Aukaforseti í hvørt sinn fyrifram ýtarlegar stad og tíma.

## §. 16.

Tvø skulu Félags-mót, annad á Stiftunardag Félagsins 28da Janúarii, hitt 5ta Júlii ár hvørt. Ef annanhvørn þessara daga ber á Sunnudag, má samkomu Félagsins þoka á næsta rúmhelgann dag. Á fyrra mótinu skal rádgast um og ályktad, hvørjum og hve mikil verdlaun og penínga styrkur géfinn verdi fyrir nytsamar ydnir og ritgjørdir, svo þeim útbýtt verdi á næstu Manntalsþíngum. Þar skal einn-

ig sýslad um hvad annad, er Félags-limum þykir naudsyn tilbera, og skírt frá af Gjaldkéra hvørjir félagar eigi þá enn ólokid tillögum sínum, undireins og hann, sem ádur er mælt, framber reikníng sinn fyrir seinasta reikníngsskapar ár. Á Júlii mánadarmótinu gjørir Aukaforseti skíra grein fyrir athøfnum Félagsins, fjárhag og øllu ástandi á seinustu **12** mánudum; þá skal og uppkvedid, hvad Félagid framvegis einkum vill sér fyrir hendur taka, hvørra ritgjørda þad æskir, og fyrir hvad þad verdlaunum heitir, samt þad annad rádid og stofnsett, sem betur þykir henta til þess augnamid Félagsins fái framgáng. Aukaforseti gjørir þá og bert, hvørjir verdlaunum sæmdir séu fyrir atorku sína og hvørjum Félagid hafi styrk veitt á umlidnu ári; hvørjir einkum hafi eflt og styrkt Félagsins tilgáng, og skarad framm úr ad nokkrum ydnum, eda atburdum þeim, er Félagid upphvetur til. Ad eins á þessum fundi má umbreytíng gjøra á nokkru í løgum Félagsins, er þurfa þykir. Þá skal og velja Embættismenn Félagsins, þad árid er kosníng þeirra adber, sem ádur er mælt.

§. 17.

En lögbodin Félags-mót verda ei haldin med færri enn 11 Félags-limum.

§. 18.

Vilji nokkur Félags-limur stínga uppá einhvörju nýmæli, er midad sýnist géta til Félagsins þarfa, skal sá bera upp fyrir Aukaforseta Félagsins, eda Fulltrúunum skriflega, er þá leggja slíkt undir álit Félagsins stjórnar og þeirra annara Fulltrúa, er hæglega verdur tilnád; sídan skal því málefni vikid til næstu Félags-samkomu.

§. 19.

Á Félags-mótum, sem og líka í bréfaskriftum Félagsins, sé íslendsk túnga brúkud og vidhöfd; þó skal þad á dönsku máli kunnugt gjört þeim dönsku Félags-limum, sem vid staddir eru, hvad um er hönldad

á Félags-móti, og þeim svarað í því máli til þess, er þeir vilja spurt hafa.

§. 20.

Atkvæði sín tilkynna menn á Félags-fundum á skrifuðum seðlum, eða með uppréttum höndum, et jákvæði skal géfa.

§. 21.

Félagið heitir eingum verðlaunum fyrir þau fyrirtæki, sem gjörð eru, áður enn Félagið var stofnað. Þó skal til slíks litið við útbýtíngu verðlauna fyrir þá atorkusemi, er síðar er sýnd.

§. 22.

Verðlauna óskir, er uppberast skriflega eða munnlega fyrir héraðs Fulltrúum, sendast það fyrsta mögulegt er Aukaforseta, er þá ákveður Félags-stjórnar fund og tilkallar svo marga Fulltrúa, sem færi er á til yfirvegunar þeirra innkomnu verðlauna

óska; skal þá sérílagi athugad, auk þess hvørnig ad verkinu er unnid, sú atorka og ástundan, ørdugleiki og kostnadur, sem þar-til er varid, og þad gagn og eptirdæmi, sem þar af má leida.

## §. 23.

Þegar ritgjørdir berast Félaginu, þær er annadhvørt eptir ósk þess hafa samdar verid, eda einhvør sjálfkrafa frambýdur og leggur undir þess dóm, skal Stjórn þess tiltaka Nefnd manna, medal Embættismanna sinna, er meti slíkar ritgjørdir. Líka má stjórn Félagsins kjósa til þess einhvørn af limum sínum ef þurfa þykir. Vid slíkar ritgjørdir vill Félagid árlega tengja skírslum um ástand sitt, atburdi og sýslanir, reikníng yfir inn- og út-gjøld, lista yfir Embættismenn og Félags-limi.

## §. 24.

Nokkur hluti Félagsins inngjalda skal

árlega gjørast ardsamur með láni á óhulta skuldastaði og gégn lagarentu.

§. 25.

Vilji nokkur ánafna Félaginu fégjøf nokkra, og kveður hann á til hvørs hún skuli sérílagi brúkast, á Gjafarans ákvarðan nákvæmlega að uppfyllast.

§. 26.

Nú vill nokkur segja sig úr vorum Félagsskap; og skal hann það gjørt hafa bréflega til Aukaforseta við árslokin ið síðasta. Gjøri hann það síðar, ber honum að lúka tillagi sínu á því ári.

§. 27.

Ef reglu-limur Félagsins færir heimilisfáng sitt úr Suður-Amtinu, breytist hvørki réttur hans né skyldur við Félagið, með-

an hann vill svo vera láta; skal hann ad eins þar eptir talinn medal Aukalima.

---

Þessi Løg eru framborin og sampykt af øllum Félags-limum á Félagsins aukamóti 8da Júlí 1837.

Th. Sveinbjørnsson.
Aukaforseti Félagsins.